# Minning

Consistorial-Assessors

Síra

# Gunnlaugs Oddssonar

Dómkyrkjuprests í Reykjavík.

útgéfin

á kostnad minnugra vina ens framlidna

Prestanna

Þorg. Gudmundssonar og Þorst. Helgasonar.





Kaupmannahöfn.

Prentud í S. L. Möllers prentsmidju.

1838.

# Húss-Kvedja

haldin vid úthafningu
Consistorial-Assessors og Dómkyrkjuprests
**Gunnlaugs Oddssonar**
af
Herra Steingrimi Biskupi Jónssyni
þann 13da Maji 1835.

---

Minning réttlátra blifur í blessun; Gud minnist þeirra réttlátu til ens besta, þegar hann í ondverdu géfur þeim líf og líkama. Þú, Drottinn! huldir mig í minnar módur kvidi; þegar eg ennþá var á minnar módur brjóstum, varstú mitt hjartans traust og hlutskipti! Drottinn, hann minnist sinna réttlátu allann þann tíma, sem hann unnir þeim ad lifa hér á jordunni. Drottinn! þú leidir mig eptir þínu alvísa rádi; í Guds hendi standa allir vorir tímar. Drottinn, hann hjálpar þeim réttlátu; hann er styrkur þeirra í neydinni, hann stendur hjá þeim og veitir þeim hjálp, því þeir treysta á hann. Drottinn, hann minnist þeirra réttlátu, þegar hann leidir þá hédan úr heimi, hvar allt er hverfullt og forgengilegt, til ædra

lífs og inn í hinn betra heim. Þetta er vors Endurlausnara fyrirheit: Eg fer að tilbúa ydur stað — Í födur míns húsi eru margar vistarverur — Þar, sem eg er, þar skal og þjón minn vera. Drottinn, hann yfirgéfur aldrei hina heilögu — Dandi hinna réttlátu er dýrmætur fyri Drottni — Dandinn er minn ábati.

Gud minnist hinna réttlátu, eptir að þeirra skammvinna líf á jördunni er á enda; hann hefir þeim, einsog hinum, er lifað hafa gudrækilega, réttvíslega og hóffamlega í heimi þessum og eru hans elskendur, fyrirhugaða og tilbúna í sínum dýrðarhimni eylífa farsæld, þá sælu, sem augað hefir ecki séð, eyrað ecki heyrt og engum í hug komið. Minning réttlátra blífur þannig í blessun hjá Gudi, hjá honum, sem er höfundur og uppspretta alls ens góða, allrar blessunar bædi í tímanum og eylífdinni. Minning réttlátra er enn fremur í blessun hvað sjálfa þá snertir; þeir fagna tilveru sinni, þeir fagna öllu því, sem hér gjörir þeim lífið sætt og yndislegt. Hversu margbreytilegar og þúngar eru hér tídum raunir þeirra? leiddir eru þeir ígégnum vatn og eld og ýmsar hörmúngar, svo þeim leidist lífið, þeim verdur Gud einn hulinn Gud, þeim verda hans dómar óransakanlegir og vegir ósinnandi; en — þeir lifa samt í trúnni og voninni, minnugir Guds fyrirheita: Að allir hlutir skuli þéna þeim til góds, sem elska Gud. Já, þegar allt er umlidið, með þolgædi og stodurglyndi umborið og afstadið, minn-

ast þeir þess: Að allir Guðs vegir eru miskun og sannleiki. Í eylífðinni, þegar þeir sjá augliti til auglitis, og þeckja hann einsog þeir verða þecktir, þá verður þeirra minníng, endurminníng á öllum Guðs velgjörðum við þá í blessun. Eynþá er eitt: hvílík verður minníng hinna réttlátu hjá þeim, sem eptir þreya, þá er þeir eru héðan burtkallaðir? hún verður einnig í blessun. Þeir burtkölluðu góðu, réttlátu, Guð og dygðir elskandi menn, falla þeim eptirlifandi aldrei úr minni; þeirra viðmót, orð og verk, allt til betrunar, til uppbyggíngar, til eigin og almennra heilla, verður þeim æ fyrir hugskots sjónum; þeir virða þá, elska þá, og laga sig eptir þeirra gæfna dæmi. Burtfor þeirra, opt óvænt, ætíð saknaðarfull, gjörir allann þeirra burtkölluðu lífs-feril, með stærri og smærri atvikum, sem annars hefðu gleymst og verið minna eptirtekið, minnisstæð og ógleymanleg; dygðugra, fullkominna, réttlátra manna hérvera, þó hún sé stutt, styttri enn menn óska, hefir kroptugar, lángvinnar heilla verkanir fjær og nær, fyrr eða síðar; Þeirra nafn fúnar ecki, þess lofstír, þess endurminníng hjá syrgjandi eptirþreyendum, verður hin kjærasta, yndislegasta, þeim til blessunar.

Þetta er víst: Að minníng réttlátra verður blessuð af Guði, blífur í blessun yfir þeim réttlátu sjálfum og hjá þeim eptirlifandi. En — því stöndum vér þá svo daprir og þánkafullir hjá lík-kistu þeirri, sem hér hylur líkama þess

mikla manns, Consistorial-Assessors og Dómkyrkjuprests Gunnlaugs Oddssonar? Hann var sá, er að gáfum og lærdómi og siðprýði og eðallund og mannkjærleika og sérlegri hjartagæðsku við nauðlíðandi, að frama og fullkomna frá barndómi, ígégnum margann örðugleika, sér og sínum og föðurlandi voru til sæmdar, gagns og heilla, var þjóðkunnur vorðinn; Hans minníng er og blífur í blessun.

Vér erum daprir, því vér söknum hans úr söfnuðinum, sem elskaðs og heiðraðs ágætasta Kénnifoðurs; vér allir söknum hans úr vorum samvistum, og sjáum hann ekki framar hér á jörðu, sem hafði lifað oss og svo mörgum til mentunar, uppbyggíngar og aðstoðar. Vér erum þánkafullir við hans burtköllun; því, þegar vér sjáum, eða að eins felum fyri sjónum vorum hans andvana, náföla lík, sem áður var lifandi, líflegur og — eptir ætlun vorri og ósk — mundi eiga hér mörg ár ólifuð, megum vér þeinkja, sem hann mælti til sérhvörs af oss: „í dag mér, á morgun þér," eða dauðans Engill hvíslaði að oss: „Lángt máské ekki líði um það, legg eg þig eins í slíkann stað." En — hér í húsinu eru ekki einúngis þeir, sem sakna, heldur og þeir, sem gráta; hér er Ekkjufrúin, sem flýtur í tárum, því hennar ektamaki er burtu tekinn; hún má kveinandi spyrja:

Hvar mitt ertú, ekta-hjarta!
eðla forsvar, hjálp og gleði?

Kann eg ei þig fá ad finna
framar svo ad lifum saman?

Hvar er þín ræda' og hollu rádin,
hendt forsjónin best sem þénti?
er ei kostur ad þau heyri,
eda fengi halda lengur?

Nei, hér í heimi ekki, hún má því þacklát vidurkénna og minnast ens góda, er hún hefir notid og segja:

Gud mér þetta gódur veitti,
Gud er mátti tók þad átti;
voldugt prísad vel, sem skyldi,
veri nafn hans æ og jafnan!

O, þér, eptirlátna Eckjufrú! sárt skarst ydar hjarta, þegar þér sáud þann, sem ydar hjarta elskadi, mædast og þreytast undir sjúkdómsins þúngu byrdi; vongód felldud þér margt bænartár, ad honum mætti batna; en — þegar næst sýndist komid, ad þér fengjud ydar von og bæn uppfyllta, þá var stundin komin, ad ydar ektamanns ódaudlegi andi leystist frá líkama þessa dauda; líkaminn lá þar hræringarlaus, følur, nábleikur; sorgin inntók ydar hjarta, svo fyrst fengu tárin ecki framrás, en sídan vard ydur léttir í, ad géta úthellt táraflódi. Medan líkaminn var enn í ydar húsi, hefir ydur fundist, sem hann væri ydur ecki algjørlega mistur; jafnvel umhugsanin fyrir ad fá hann, samkvæmt ydar skyldurækt, búinn til moldar og heidurlega úthafinn til síns

hvíldarstadar, hefir mýkt og temprad ydar hjartasorg; en nú — nú er þá komid ad því augnabliki, ad ydar sorg ýfist, ad nýtt táraflód útrenni; sá elskadi líkami skal útberast úr þeim húsum, burtflytjast frá því heimili, hvar hann í lifanda lífi, um seinustu 5 ár, var ydar sýnilegt yndi og eptirlæti; hann skal hédan burtflytjast, ecki sjást hér framar, en hann skal færast til þess heilaga stadar vor á medal, hvar svo margra réttlátra manna líkamir hvílast í fridi. Fylgid í huganum ydar sæla ektamanni til þessa sídasta hvílu-rúms, hvar hans líkami skal seinast nidurleggjast; ad því loknu hafid þér gjört og látid gjöra allt hvad þér gátud vid sjálfann ydar elskulegasta — þad er, sem vér köllum, sú seinasta þénusta vid framlidna. En — íhugid: Þér erud ecki einar eptirskildar, ydar ektamanns endurminníng lifir, og er ydur ennþá fyrir líkamlegum sjónum, í yckar 5 eptirlifandi úngu, uppvarandi börnum; látid, sem hans seinasta bón hefdi verid til ydar: Vertu þessara módir! hans seinasta kvedja og ósk hefdi verid til yckar sameiginlega: Eg fer hédan, en Gud mun vera med yckur! O! svo hressid af ydur, og verid hughraust med börnum ydar! hann, sem er Fadir födurlausra og forsvar eckna, mun ecki yfirgéfa yckur, mun annast yckur og minnast yckar, sem barna sinna í nád og miskun, og á sínum tíma igégnum daudans gaung leida yckur inn í fridarins og fullsælunnar tjaldbúdir, í hverjar yckar elskulegasti, med fleirum ástvinum,

er á undan yckur genginn, og hvar eylífur fögnudur er yfir allra réttlátra höfdum, hverra gledi og unadsemd er fengin, en sorg og andvarpanir á enda.

Svo veri þá loks fridi lýst yfir þessu jardneska sorgarhúsi! Þér, líkmenn! gjörid ydur tilbúna ad úthefja hédan kistulagdar líkamsleifar vors elskada Sóknarprests. Þér nærverandi líkskari! heidrid þessa líkams úthafningu med ydar fylgd til hans sídasta legstadar, og látum þenna líkflutning ecki einúngis vekja hjá oss endurminníngu þess framlidna, sem hlaup sitt hefir fullkomnad, heldur og um þad, ad vor allra lífstíd er á fleygiferd, og vér flýtum oss til grafar, hverssvegna naudsýnlegt er, ad vér kappkostum ætíd ad lifa vel, svo vér fáum ad deya vel, og höfum þess vissa von sídar ad sameinast og samfagna hverr ödrum í útvaldra skara, á þeirri nýu jördu undir þeim nýa himni, Amen!

# Lik-ræda

haldin vid jardarfør
Consistorial-Assessors og Dómkyrkjuprests
**Gunnlaugs Oddssonar,**
af
Herra Árna Stiptprófasti Helgasyni,
þann 13da Maji 1835.

Þó vér med innilegustu sannfæringu gétum játad: vér vitum ecki, hvors vér eigum ad bidja eins og bidja ber, þá vitum vér eina bæn oss ætíd þénanlega, þessa nefnilega: Drottinn! vertú vor styrkleiki! kénn oss í audmýkt og med trúnadartrausti ad gánga þá leid, sem oss er ætlud, ad leggja allt vort rád þér á hönd, og nota hvørt tækifæri, sem oss býdst, til framfara í allri andlegri fullkomnun, svo vér á endanum náum því takmarki, sem oss er ætlad ad ná, og þroskunst til ens eylífa lífsins. Þetta er nú og vort bænar andvarp, vid eitt þad atridi vorrar vegferdar, sem sýnir oss lífsins alvøru. Heyr, Drottinn! vort bænakvak, og bænheyr oss, Amen!

Þad er tølnverdt sorgar-atridi, sem hefir safnad oss ad þessari lík-kistu. Daudinn er ætíd næsta alvarlegur øllu því, sem lífsanda dregur. Þó vér vitum engann hlut med meiri vissu, heldurenn þad, ad allt, sem lifir, hlýtur ad deya;

þótt vér sjálfir deyum daglega, þokumst nær endir lífsins; þótt vér sjáum opt, heyrum næstum daglega þess gétid, ad nú þessi, nú hinn, sé kalladur frá þessu lífi, og þó allt þad, sem opt kémur fyrir, komist loks hjá oss eins og uppi vana, og gjöri því minni verkun á oss, sem þad optar sést eda heyrist, vér gétum samt ecki hugsunar- eda tilfinningar-laust, annadhvert séd daudann þoka sér nær, eda frétt ad hann hafi lagt ad velli nú þenna, nú hinn, af vorum ættlegg.

Lífs kringumstædur þeirra, sem burtkallast, géta gjört tilfinningar vorar margvíslegar vid hvílík tækifæri; þegar gamalmennid deyr, þá látum vér oss þad ecki mjög nærri gánga, en þótt sá aldradi sé oss allrar æru verdur, vegna hans heidurlega lífs, eda kjær vegna velgjörda eda blódtengda; því vér vitum, ad ecki géfst onnur leid hédan til betra lífs, heldurenn sú, sem liggur um hinn dymma dal og daudans skugga, og svo gott, sem vér álítum lífid — yfir höfud ad tala — þá vitum vér, ad þess ágæti rénar því meir, sem þad verdur lengra, og þeir, sem ellinni ná — sem færstir eru — þeir finna sjálfir gott fyrir sig hédan ad fara og vera med Kristi.

Vidlíka erum vér sinnadir, þegar einhverr sá deyr, sem lífsins reynsla gjörir þannig áþeckann gamalmenninu, ad ecki er von til, ad hann nockurn tíma géti notid lífsins, eda verid ödrum til uppbyggingar, eda sem vér sjáum ad lifir sér og ödrum til mædu.

Þegar úngbarnið deyr, fyrri enn sjáanlegt er — væri það nockurn tíma ódar enn framkémur — hvers mundi vera að vænta af þeirri úngu plöntu, svo sárnar oss þetta dauðans vald einnig yfir þeim blómlegustu jurtum; vér tökum hlutdeild í foreldra og náúnga sorg, sem una sér nú ecki, þegar lífsins unan, það blómlega blómstur var upphöggvið af dauðans beittu sigð.

Þegar menn á besta aldri hníga fyrir dauðans árás, þykir oss það mannskaði, og því meiri mannskaði, sem sá burtkallaði var uppbyggilegri því manna-félagi sem hann var tekinn frá, já, því tilfinnanlegri mannskaði, sem vér höfum fleiri orsakir til að óska, að lífsþráður hins andaða hefði gétað orðið lengri, af því hann var dugnaðar-maður, ráðvandur, elskulegur: hafði þá stöðu í félaginu, að hans skarð er ecki hægt að fylla: var tekinn frá sártsyrgjandi maka, frá úngum afkvæmum, frá vinum, frá vandamönnum, hverra helzta eða aðal-athvarf hann var. Fregn um fráfall þesskonar manns, hún er nockurskonar reiðarslag fyrir allra þeirra manna tilfinníngu, sem eiga einhvern hlut að máli þar, sem svo ástendur; já líka fyrir þeirra tilfinníngu, sem taka hlutdeild í einhverju meiru, heldurenn því, sem snertir þá sjálfa, sem álíta sér ecki óviðkomandi manna kjör, þeirra sorg eða gleði.

Fráfall þess merkilega Kénnimanns, að hvers útför vér nú stöndum, hefir því gjört töluverðar áhrifur á hvers manns sinni, sem þeckti hann

og hans lífs kríngumstædur, og hann var vída um land vort og líka utanlands þecktur, og þecktur ad ollu gódu; hans aldur var ecki hár, hardtuær 47 ár; hann hafdi þjónad prests-embætti ecki full 8ta ár, og þvi betur og vandlegar þad var gjort, þvi meiri er missir þess safnadar, sem hann nú sárt tregar. Hann er tekinn frá þeirri húsfrú, sem hann elskadi innilega, og sem aptur hefir vottad í verkinu innilegustu elsku til hans. Hann er tekinn frá 5 afkvæmum ollum úngum. Hann var — og í þad er mest varid — rádvandur, blídlyndur, hjartagódur madur, einhverr sá mesti kénnimadur og kénnari. Hann hafdi stødugt, frá því úr skóla kom og til þess hann andadist, haft á hendi uppfrædingu úngra manna, sem til menta voru settir í ýmsum vísinda-greinum í 27 ár. Hann vildi engum mein gjora, í ollu láta gott af sér leida, med þægilegu vidmóti, med hyggilegum og gódum rádum, med þénustusemi, med gjøfum, bædi vid skylda og vandalausa, optast af litlum efnum. Þau markverdustu atridi hans lífs, eru þessi:

Hann er fæddur þann 9da Maji 1788 á Géldingaholti í Skagafirdi.*) Fadir hans Oddur

*) Síra Gunnlaugur sæli Oddsson er fæddur þann 9da Maíi 1788 á Geldingaholti í Skagafirdi. Foreldrar hans voru bóndinn Oddur Oddsson og Ragnheidur, dóttir Þorsteins prests Eiríkssonar frá Vesturhópshólum. Þau áttu saman alls 15 børn, øll efnileg, er á fót komust. Hjón þessi voru alltaf mikid fátæk og høfdu eigi stórt annad til lífsuppheldis fjølskyldu sinni, enn þad Oddur gat

bóndi Oddsson bjó þar, eptir ad hafa ádur verid smidur á Hólum í Hjaltadal. Hann ólst upp hjá sambýlismanni fodur síns, Erlendi bónda Runólfssyni; útskrifadist úr Bessastada skóla 1809; í þenna skóla hafdi hann gengid í 4 ár. 1810 var hann húskénnari hjá Skóla-okonóm B. Haldórssyni; 2 næstu ár skrifari hjá Stiptamtmanni Castenschjold í Reykja-vík, og jafnframt kénnari nockurra únglinga þar. 1812 fór hann utanlands, til ad verda kénnari í húsi bródur ádurnefnds Stiptamtmanns, er sat

áunnid sér med smídi sinni, því hann var hagleiks-madur mikill og vandvirkur. Sambýlismadur hans hét Erlendur Runólfsson, gáfadur en fátækur bóndamadur, en kona hans hét Gudlaug Sveinsdóttir, og var hún ljósa allra barnanna, þeirra Odds og Ragnheidar. Þessi æru- og gódsemdar-hjón tóku strax frá fædíngunni til sín og ad sér Síra Gunnlaug sál., ólu hann upp og fóru vel med hann; og þared gáfur hans munu snemma hafa skarad framúr sona þeirra, komu þau honum í ýmsa stadi til menníngar og lærdóms, mánud og mánud í senn, því aldrei voru þau fær um ad géfa med honum heilan vetur; í þessari hans únglíngstíd mátti hann opt fara ad álidnum vetri sudur á land til sjóródra, til þess ad létta undir med fósturforeldrum sínum; en á sumrin var hann hér og hvar í kaupavinnu, einúngis í fyrstu til ad vinna fyrir fædi sínu. Í þessu basli átti hann þángadtil hann kom í skóla árid 1805, en þá var hann líka ordinn svo þroskadur og vel vinnandi, ad hann fékk fullkomid sumarkaup, hvar hann var í kaupavinnu. Sumarid 1809, sama ár er hann útskrifadist úr skóla, var hann kaupamadur hjá Síra Birni Jónssyni og Madame Ingibjörgu Olafsdóttur á Bólstadahlíd, foreldrum unnustu sinnar, hvar hann fyrst kynntist vid hana, og trúlofudust þau þá sín á milli á laun, en fadir hennar og ættfólk allt var á móti þeim rádahag; því Síra Björn, fadir frú Þórunnar, sem rédi ad mestu rádahag dætra sinna, hafdi ætlad hana ödrum, sem honum betur gedjadist, þad var Stúdent Benedict Jónsson frá Höskuldsstödum, er sídar giptist systir hennar

á einum Sjálands herragardi; þar mun hann verid hafa til þess 1815, og úr húsi þessa gofuga Herra fór hann med besta vitnisburdi.

Nú tók hann fyrir sig ad stúdera vid Kaupmannahafnar háskóla, en neyddist þó til jafnframt ad abla sér, med kénnslu-størfum, naudsýnlegs uppheldis, því hédan frá landi féck hann engann styrk; já, þad vantadi svo mikid á þad, ad hann jafnvel vard ad láta nockud af því, sem hann gat innunnid sér, med því ad kénna, módur sinni og fóstra, þá ordnum örvasa, til adstodar. Þetta

Ingibjørgu, og vard fyrst prestur ad Melum í Borgarfirdi, en seinast til Hítarnesþínga, hvar hann sáladist árid 1836. Til þess ad hlýdnast fødur sínum trúlofadist Frú Þórun um sídir, en þó med tárum, Stúdent Benedict, en þá vard hún veik af óhuga og féck meiri enn nockurntíma ádur óvild á hønum, þared henni fannst hann vera orsøk til allra rauna sinna, jafnvel þó hún vidurkénndi ad hann í rauninni væri bædi skynsamur og gódur madur; hann fann nú líka ad hann mundi gjøra bædi sig og hana óluckulega, ef hann færi fram í þetta, svo hann harmandi og sorgbitinn gaf frú Þórunni fría frá jáordi sínu, hvarvid hún vard aptur einsog endurlifnud. Um þetta leiti var Síra Gunnlaugur sál. skrifari hjá Stiptamtmanni Castenschjold, og frétti sudur ad nú væri unninn bjørninn, og ad unnusta hans ætti ad giptast Stúdent Benedict á sumardaginn fyrsta; þá fór hann þann sama dag, er þessi sorgarfrétt kom hønum til eyrna, til Stiptamtmannsins og tók ámóti þénustu hjá bródur hans utanlands, sem hønum hafdi ádur stadid tilboda, en afsagdi Capellaníi fyrir nordan, sem hann annars ádur ætladi ad þiggja, ef foreldrar frú Þórunnar hefdu leyft honum ad eignast hana; þetta var einmidt orsøkin til siglíngar hans. Vorid 1812 fór hann nú nordur til ad kvedja fóstra sinn, ádurenn hann færi úr landi, og ætladi sér ecki ad koma ad Bólstadahlíd, en þegar hann hjá fóstra sínum frétti hvørnin komid var, breytti hann áformi sínu, féck bestu vidtøkur á Bólstadahlíd, og trúlofadist þá opinberlega frú Þórunni med leyfi fødur henn-

ætla eg sén sádæmi, ad nockurr, sem stundar vísindi vid háskólann, og hefir ecki adra atvinnu — ad eg svo ad ordi komist — helldurenn handabla sinn, finni sér mögulegt ad leggja nockud úr mörkum vid naudstadda náúnga; því þeir sem best gjöra, þykjast þá gjöra vel, þegar þeir annast sjálfa sig, og eru þeir færstir, er af því géta hrósad sér.

Frá þessum tíma, 1815 til 1821, stúderadi vor framlidni Heimspeki og Gudfrædi vid háskólann, og tók yfirheyrslu í Gudfrædinni 20ta

ar, þeim bádum til stærstu gledi og ánægju. Nú gat hann ecki sezt aptur þótt vildi, og sigldi því samsumars burt af Íslandi, og byrjadi hönum vel. Í 3 ár var hann nú hjá Herramanni Castenschjold á Sjálandi og kénndi börnum hans, þar leid honum mikid vel og átti hann þar góda daga, enda var hann sérlega vel lidinn af húsbónda sínum, hvörs hylli hann ávann sér med blídlyndi og sidprýdi sinni; eg heyrdi Síra Gunnlaug sæla optar minnast þess med þacklæti, hversu vel hann hefdi farid med sig, og þegar hann var farinn frá hönum skrifudust þeir jafnadarlega á, og lét Castenschjold hönum þad heimilt ad heimsækja sig nær sem hann vildi, og leita hjálpar hjá sér, þegar hönum lægi á. Á þessum árum hugfesti hann þad ad idka vísindi vid Kaupmannahafnar háskóla, og bjó sig því medfram undir þad, medan hann var hjá Herra Castenschjold. Árid 1815 tók hann Examen artium og vard borgari vid háskólann; hann ætladi sér í fyrstu ad stúdera lögvísi, en því lengra sem hann kom útí lögin, því þurrari og ógédfeldari sagdi hann sér hefdu fundist þau; hann snéri því um bladinu og lagdi sig eptir gudfrædi. (Um veru hans í Kaupmannahöfn má lesa í líkrædu Stiptprófasts Herra Árna Helgasonar). Auk sinna margföldu kénnslu-starfa og vísinda idkana hefir Síra Gunnlaugur sál., medan hann dvaldi í Kaupmannahöfn, líka skrifad mikid og tekid þátt í útgáfu fleiri bóka; þannig hefir hann samid handhæga Ordbók yfir öll framandi og skjaldgæf ord, er finnast í dönskum bókum, og snúid þeim á íslenzku, til mikils léttirs fyrir Íslendínga, er nema vilja

Julii 1821. Þegar athugad er, ad hann bædi leysti vel af hendi lærdómspróf þau 4, sem hér útheimtast, hafdi sjálfur af fyrir sér, lagdi módur sinni og fóstra nockurn styrk, tók ad sér, stundum med toluverdum kostnadi, ad manna ýmsa, nockra náúnga sína eda kjærustu sinnar, ad hann var þaradauki gódviljadur og þénustusamur vid marga vandalausa, þá má oss furda, ad hann gat á svo stuttum tíma aflokid sínum bókmenta ydkunum vid háskólann. En — þeir, sem tilþeckja, géta og ímindad sér, ad þad muni ecki hafa kostad litla

danska túngu. Hann hefir gjørsamlega samid Landaskipunarfrædina fyrir Bókmentafélagid, er þad hefir útgefid á sinn kostnad, og leyst þad vandaverk vel og snilligega af hendi. Líka hefir hann í sameiníngu med 2ur ødrum løndum sínum snúid Dr. N. Møllers Veiledning til det N. T. á íslenzka túngu. Hann var einnig ásamt 3ur ødrum løndum sínum frumkvødull til þess ad Vídalíns Húspostilla væri aptur útgéfin og prentud eptir 30 ára tíma. Þad er audvitad ad þetta hefir kostad hann mikid ómak og yfirlegu, enda var hann makalaus idinn og erfidadi optsinnis lángt fram á nætur. Hann óskadi þess innilega, ad unnusta sín gæti komid híngad nidur til Kaupmannahafnar, hønum til gledi og upplífgunar, og fór hann þess opt á leit vid foreldra hennar, og ætladi sér ad fara heim og sækja hana, ef þau vildu leyfa henni førina, en þessu var hønum þverneitad, enda vildi frú Þórun ecki skilja vid módur sína, svo lengi hún var á lífi, því hún elskadi hana øllum manneskjum fremur; en á banadægri sínu bad Madame Ingibjørg manninn sinn ad lofa dóttur sinni ad fara erlendis, og þad lét hann eptir henni. Þegar þessa glediliga fregn barst Síra Gunnl. sál., var hann nýlega ordinn kénnari vid skóla þann hér, hvar foríngjar sjólidsins mentast (Søecadet-Academiet), svo hann gat ecki farid heim og sókt unnustu sína, einsog hann hafdi vilja og hug á, án þess ad missa bjargrædis atveg sinn hér; hann bad því unnustu sína ad láta sjá þad væri karlmanns hugur í konu brjósti og koma nú nidur til Kaupmannahafnar án sín, og lét hana vita, ad 4 kaupmenn hefdu

árcynslu. Pad mesta af deginum gèck og til ad uppfræda adra, nóttin var þá brúkud til ad læra. Hann var kénnari fleiri ár í þeim skóla, hvar úngir menn, ætladir til embætta vid sjóarherinn, nema ýmislegar vísindagreinir, og þaradauki kénndi hann mörgum ödrum. Nafnbót féck hann af Konúngi 14da Janúar 1825, fyrir lánga og góda þjónustu vid uefudann skóla, þá, ad heita Consistorial-Asfessor. Reykjavíkur prestakall var honum veitt þann 31ta Maji 1826, en hann vígdist ecki fyrr enn 8da Julii 1827.

---

lofad ad flytja hana, og gæti hún sjálf valid med hvörjum hún helzt vildi fara. Pad útheimtist ad vísu mikid árædi til þess fyrir únga stúlku, sem er uppalin í sveit, ad takast slíka ferd á hendur, til framandi lands, hvar sidvenja öll og búskapur er svo frábrugdid Íslands háttum, en ást frú Pórunnar til unnusta síns lét hana ecki setja þetta fyrir sig. Hún fór af stad med kaupmanni Møller frá Íslandi, og átti lánga og harda útivist í hafi, en allt þetta sjóvolk og armæda gleymdist þegar hér var komid, því nú var henni fagnad af tryggdavini sínum og unnusta, er hún ecki hafdi augum litid í 6 ár; hann bar hana líka á örmum sér, og kom henni fyrir á gódan stad, hvar hann mánadarlega mátti géfa med henni 20 rbd. fyrsta árid, því hann vildi eckért spara til ad gjöra henni dvölina hér bædi gagnlega og skémtilega, og láta hana nema handidnir þær, er hér þykja prýda heldri stúlkur. Frú Pórun undi því illa, ad vera honum þannig til þýngsla og kom hann henni því, eptir beidni hennar, í húsid til dándiskvinnunnar frú ofurstinnu Michelsen, og þar var hún þángadtil hún giftist Síra Gunnl. sál.; í húsi þessu undi frú Pórun sér mikid vel, og hefur hún optlega gétid þess, hve vel sér hafi lidid þar og hve módurlega frú Michelsen hafi farid med sig, og þegar hún giptist frá henni, þann 24 dag Maji mán. 1822, þá gaf hún henni, auk 100 rbd. í peningum, margt annad, er hún þurfti med til ad stofna bú hér, og er þad ecki lítid. Pannig nádu þessir tryggdavinir loks ad eigast, er þau höfdu verid trúlofud í 14 ár, og á þessum árum

Þann 24da Maji 1822 hafdi vor framlidni gifst í Kaupmannahøfn sinni nú sártsyrgjandi ektahústrú Frú Þórunni Bjørnsdóttur frá Bólstadahlíd. Af einstaklegri trygd hafdi hún, fyrir margitrekada beidni unnusta síns, reist hédan frá landi til Kaupmannahafnar 1818, og þar, med hans umsjá, haft af fyri sér, uns hjúskapur var inngenginn. Í hjúskapnum hafa þessi hjón eignast 7 afkvæmi, 5 af þeim eru á lífi, þad elsta á 12ta aldurs ári, en hid ýngsta á 1ta hálfmissiri.

---

ecki séd hvørt annad í 6 ár, svo hérum má med sanni segja: hvad Gud almáttugur hefir fyrirhugad ad skuli sameinast, þad megnar enginn ad hindra edur adskilja. Hjúskaparlíf og sambúd þessara elsku-hjóna var ad líkindum hin ánægjufyllsta og inndælasta. Í 5 ár bjuggu þau saman í Kaupmannahøfn, og lifdu hér glødu og ánægdu lífi, og þótt efnin væru lítil, einsog nærri má geta, þá stód þó hús þeirra ætíd opid bædi landsmønnum og ødrum kunníngjum og vinum þeirra, og munu flestum løndum, er hér voru þeim samtída, minnisstædar þær mørgu ánægjustundir, er þeir nutu í því elskada húsi. Í Kaupmannahøfn áttu þau saman 3 børn: þad fyrsta hét Gunnþórun Ingibjørg Ragnheidur, efnilegasta stúlka, hún sáladist á ødru ári. Þad annad var líka stúlka, og fékk nafn systur sinnar, er þá var sálud. Þad 3ja var drengur og heitir hann Erlendur Vilhelm Bjørn. Á Íslandi eignudust þau 4ur børn: 1) Gunnlaug Eyjólf; 2) Ingibjørgu Elísabeth; 3) Olaf Þorstein, er andadist rúmra 9 mánada gamall og 4) Olaf Þorstein, er þannig hlaut nafn síns andada bródurs; þessi var ei fullra 10 vikna, þá hann misti fødur sinn, en elzta barnid fyllti 11ta árid, þegar hann var kistulagdur á beggja þeirra fædíngardag þann 9da dag Maii mán. 1835.

Gud almáttugur veri fadir fødurleysíngjanna, og forsvar og styrkur ennar sorgmæddu eckjufrúar!

Þorgeir Gudmundsson.

Eg þarf ecki ad minnast á hans veru medal ydar; sokmudur ydar og margra harmatolur géfa ásamt tilkynna, hverr madur hann var, og ad þér vissud hvilíkann kénnimann þér áttud. Mætti eg leyfa mér ad géta þess, er eg ætla ad hafi audkénnt hann, þá munda eg segja: þad hefdi verid þad, ad hann lagdi fram alla alúd og krapta til ad gégna köllun sinni med sem mestum verdugleika; þegar þetta bætist vid þá ádurtöldu kosti: blídlyndi, hjartagædsku, gódsemi, þá er ecki kyn, þó hans sé saknad, hann verdskuldadi þad. En — eg er ecki hér til ad vekja ydar harma; eiginlega er eg hér, til ad gégna sorglegri embættisskyldu, sem eg vildi óska ecki hefdi þurft ad gégna; en — þar henni verdur þó ad gégna, þá vil eg heldur enda þetta mitt tal med huggunar-ordum, enn ala á þeirri sorg, sem ydur hefir heimsókt; því, eins og þad er vor skylda ad tempra vora gledi, þegar vel gengur, þegar heimurinn lætur oss, svo Guds nád verdi oss ecki til spillingar, svo er þad vor þörf og undireins vor skylda, ad vér tvístrum sorginni eins og vér gétum, þegar hún heimsækir oss. En þessari sorg, henni er þannig varid, ad vid henni á engin önnur huggan, heldurenn trúarinnar; og hvad segir þá vor trú? Þeim framlidna er enginn skadi skédur med þeim umskiptum, sem hann hefir fengid. Vér vitum eda trúum allir: Ad þad sé betra hédan ad fara og vera med Kristi, heldurenn ad búa í þessu holdi, sem undirvorpid er svo mörgum mein-

semdum og dregur, þá svo tiltekst, allann krapt og kjark úr mannsins anda. Þegar vér rennum auga yfir lífsferil vors framlidna, þá sjáum vér, ad svo miklu leiti, sem audid er ad sjá, hvad adrir hafa ad bera, töluverdann ervidleika; þegar vér jafnframt hugleidum, hversu misjafnt þol mönnum er géfid, hversu kappid og fjörid og skyldunnar tilfinning stundum ætlar ecki kroptunum af, svo þarf oss ecki ad furda, þó vor framlidni kénndi þreytu, þó hann eldtist fyrir tímann, og þyrfti því hvíldar fyrir tímann. Þó þeir þá, sem eptir þreya, hafi mikinn soknud og sorg, þá er þó og á hitt ad líta, ad sá sem hédan er leystur, hefir fengid gód umskipti, hefir fengid hvíld eflaust á hentugum tíma; hann er inngenginn til Guds hvíldar og hefir medtekid trúrra þjóna verdlaun.

En — soknudurinn er eins mikill fyrir þad — segid þér — þótt sá hédan leysti hafi fengid gód umskipti, já, því meiri, sem eptir meiru er ad sjá. Hefdi hann ecki verid þvilíkur kénnimadur, þvilíkur ektamaki, fadir, húsfadir, kénnari, þá væri hægra ad huggast. Hefdi hann ecki verid hvers manns hugljúfi, gódsamur vid alla og velviljadur, þá hefdi hans ecki verid svo almennt, svo innilega saknad. Þér megid sakna hans, gódir brædur! þér megid syrgja hann, hann á þad skilid af ydur. Pad er vandfenginn madur, sem fylli hans rúm. En — eins og þad var Gud, sem gaf hann, svo er þad Gud, sem tók hann á burt, og tók hann víst ecki ófyrisynju, heldur víst á

hentugum tíma, bædi fyrir hann og ydur. Án vilja ydar himneska Fodurs, fellur enginn titlíngur á jordu, og madurinn er þó og hans líf meira verdt, enn margir titlíngar. Mundi þá ecki vel vid eiga, ad þacka Gudi gjofina og láta sér ecki mislíka, ad hún var á hentugum tíma hédan slutt; hún er ecki eiginlega tekin burt. Fyrst hann einusinni var þessa safnadar kénnari, elskhugi sinnar úngdóms unnustu, fadir sinna afkvæma og vinur sinna vina, svo verdur hann þad ætíd, og mun ecki ollum þessum, jafnvel í sorginni, géta verid þad hugsvalan, ad hugsa til þess: þvílíkann kénnifodur áttum vér! þvílíkann maka! þvílíkann fodur! þvílíkann vin! Hans kénning, hans dæmi, hans verk, allt þetta er eptir ordid vor á medal; hans endurminníng vardveitist lengi; þessa alls er og verdur lengi kostur ad njóta, og hverr, sem þessa nýtur, sá gétur ecki sagt: ad sá framlidni sé gjorsamlega frá sér tekinn. Vér teljum þá einnig vini vora, sem ecki eru oss nálægir, ef vér finnum hjá oss elsku til þeirra, og ætlum ad þeir muni vidlíka til sinnis vid oss, sem vér erum vid þá. Mundi þá sambandid milli vor og vorra burtkolludu vina med ollu slitid? slitid undireins og lífsins þrádur slitnar? Géta menn ecki vidlíka, máské enn innilegar umgengist sína sáludu, sem sína fjærlægu vini? og hofum vér ecki þá von, ad innan lítils tíma skuli allt þad sameinast aptur, sem hér var um stundarsakir adskilid, og einnidt sameinast til þess ecki framar ad skilja? Mundi

ecki gjorlegt ad dvelja vid þessar og þvílíkar hugsanir og reyna krapt þeirra. Það er vor trú, sem er sigurvinníng; henni er ætlað að sigra, ecki að eins heimsins freistíngar eða tilleckanir til synda, heldur og lífsins sorgir. Allt mótlæti, medan það áliggur, er að sönnu enginn fögnuður, og það mótlæti, sem hér er um að tala, er eitt hið tilfinnanlegasta; en eins og um allt mótlæti stendur í Guðs orði þessi athugagrein: eptirá gefur það friðsamlegann ávöxt réttlætisins, svo skulum vér ecki efast um, að það mótlæti, sem orsakast af ástvinamissir, geti borið réttlætisins ávöxt. Eða — nær mundi mannsins hjarta framar neyðast til að leita Guðs, og nær mundi það framar finna Guð, heldurenn þá það leitar hans? og nær framar leita, heldurenn þá þeirra, sem menn elska, er hjá Guði að leita? og þegar mannsins hjarta hefir fundið Guð, hvað vantar það svo? Þau orð, sem Jesús, höfundur vorrar trúar, talaði við sína lærisveina, þá hann var að kveðja þá, voru ecki ófyrirsynju töluð, þessi merkilegu orð: Það batar yður að eg fari héðan. Vér efumst líklega ecki um, að það hafi verið rétt álitið og satt talað, en ætla að lærisveinarnir hafi getað látið sér þetta skiljast, fyrrenn eigin reynsla sannfærði þá um sannleikann? og hverr fær láð þeim, þó þeir skildu það ecki, trydu ecki? Og hverr fær láð þeim, sem er í mikilli sorg, þó hans hugur finni ecki það, sem hann þarf að finna, og það jafnvel þó ecki sé þess lángt að leita.

En — skyldi burtför þess himneska Lærifödurs hafa verid til bóta fyrir hans lærisveina, og þad í þeim kringumstædum sem þeir voru í, skyldi þá ecki mega hugsa, ad nockud áþeck sorgar atridi gætu þénad þeim til bóta, sem fyri þeim verda? Yfirhöfud vitum vér þad, ad Gud rædur manns-sins lífsstundum, og trúum, þad er, erum sannfærdir um, ad Gud gjori eckért annad enn þad, sem í raun réttri er hid besta, og þegar vér vitum þetta og trúum þessu, hvad er þá annad ad gjora vid þad lífsins sorgar-atridi, sem hér er skéd, heldurenn andvarpa til Guds, og bidja um styrk til ad bera lífsins mædu? um visdóm þann, ad fela sig Gudi og vona á hann, sem ecki hyrtir æfinlega? um greind til, ad snúa sér sjálfum til heilla einnig því sorglega.

Já! gled þú, Drottinn! med huggun þíns Heilaga Anda þá, sem þú hefir nú grætt, og géf þeim, sem ecki hafa frid, þann frid, sem heimurinn ecki gétur géfid, og ecki frá manni tekid; lát þá órólegu finna hvíld sálum sínum! Amen!

---

## Graf-skrift.

Hér geymast daudlegar leifar
góðfrægs kénnimanns
**Gunnlaugs Oddssonar,**
Consistorial-Assessor og Dómkyrkjuprests,
er fæddist 9da Maji 1788,
prestvígdur 9da Julii 1827,
giptist 24da Maji 1822
**Frú Þórunni Bjornsdóttur,**
átti 7 born, hvaraf 5 nú eru á lífi,
audadist 2ann Maji 1835.

Sárt saknadur af konu, bornum, hjúum,
sóknarmonnum, vinum og vandamonnum,
því hann var:
Besti ektamaki, fadir, húsfadir,
prýdi kénnimannlegrar stéttar,
gódhjartadur og gofuglyndur,
hvers manns hugljúfi, eptirlæti vina,
og rétti þurfandi bródur fúsa hjálparhond.

Svo setti kjærum tengdabródur
**Sveinbjorn Egilsson.**

†

Sem morgunsól í svortum skýum,
sig felur jardarbúum tídt,
en glædir skin med geislum hlýum,
gengin ofar á hvolfid vídt,
:|: uns um hádegi heidbjert skín,
hollar verkanir birtir sín. :|:

Eins er líf sumra merkismanna,
má til þess rekja augljós spor,
klára líking nam kroptugt sanna,
Consistorial-Assessor,
:|: **Gunnlaugur Oddsen** lagdur lík,
lærifadir í Reykjavík. :|:

Hans úngdóms skeid var skýum hulid,
skein þó allsnemma gáfna ljós,
fátækt og ætt samt fengu dulid,
framysir þad sem átti hrós,
:|: ágæti hans er sídar sást
sólskjært og ei ad dauda brást. :|:

Vid ordug kjør hann áfram képpti,
ædstu svo fengi mentun nád,
og til verdlauna ordstír hreppti
ágætann fyrir lærdóms dád.
:|: Løndum sinum fyrst lýsa réd
Landaskipunar-frædi med. :|:

Hans Ordabók og veginn vísar
vandskilin Dana lesa rit,
kénningar hans eg heyrdi prísa
háa, sem léd er mentavit,
:|: allteins þá, sem í einfaldleik
æskja sín frædist skynsemd veik. :|:

Embættisfærslan øll var heidur,
ædsta ljúfmennska prýdi jók,
trygd og umhyggja æ til reidu
einnig var þeim hann sér adtók;
:|: eiginlegleika merkismanns
mæta fæ eg ei útsagt hans. :|:

Dygd og lærdómur ljóma báru
lífs um hádegi þeßa manns;
en hvad valdid gat ángri sáru
eckjufrúnni og börnum hans,
:,: sókn og ástvinum andláts fregn,
er hjörtun stack sem fleinn igégn. :|:

Hans burtför lizt mér líkjast megi
ljómandi björtum himni á
sól, ef myrkvadist midt á degi,
menn svo yrdu í dymmu gá;
:,: en hvör fær útsagt eylíft rád?
æ þeß sannleika fengjum gád. :,:

Sorg þó ástvina ángri hjörtun
af því hans lík er hulid mold,
harma-samt skyldi hepta-kvörtun
hann vita lífa ofar fold,
:,: lifendra dýrdar landi á
ljóma sem engil Kristi hjá. :|:

frá einum Borgfirdíngi.

---

†

Vid fregn um andlát

Consistorial-Asseßor **Oddsens**

þ. 21ta Mai 1835.

Hrygdir vakna, hér er ordid skard
í fósturjardar-fyrirmanna-skyldi,
fullt þad lengur kjósa margur vildi,
Sira **Oddsen** sár-harmdaudur vard.

Frábært kosta fjöld hvörr þeckti hans,
gáfur, lærdóm, gøfuglyndi, blídu,
géstrísni og trúrækni ei sídur,
ad sárt ei þeßa sakni gædsku-manns?

Herrans þjón! þú hér þitt skeid vel rannst,
trúlyndur med ordi eins og dæmi,
oss þú kénndir kristnum best hvad sæmi;
med framkvæmdunum Fróni sóma vannst.

Sem hetja brauzt þú hér áfram þinn veg;
torveldni þér tókst ad sigra marga,
trúr þú kroptum vardir oss til bjargar;
lífs kóróna' er lögd þér vegsamleg.

Missir hvørr einn mestann finnur sinn;
oss þú gjørdir ótal margt til góda,
oss ber þøck þeim gaf og tók þig bjóda,
og bidja': ad ødlumst aptur líkann þinn.

Fæcka vinir, fáa átti' eg hér;
fann eg æru og heill í kjærleik þínum,
er eg naut med øllum veikleik mínum;
ecki' er kyn þó undin svídi mér.

Æ, minn bródir! opt þú gladdir mig,
mér kjærlægur, mér þú skémtir tídum,
mig lífgadir rits- med anda blídum;
mínum trygd þín eins var ástúdlig.

Þú ert horfinn! þad sé huggun mín,
ad þú nýtur ædri-sælu-haga,
og eptir lífsins þreida mun eg daga
af gædsku Drottins géta nád til þín.

Sæt er von og sorgum létta kann,
eg mun fá þig, elsku-bródir! líta,
aldrei þurfa samfundina ad slíta;
mín spor fæcka munu heims um rann.

Hvørr fær metid harma þúngbær kjør
elskuríkrar ekta-frúar þinnar,
er unadsemdar styttu misti sinnar,
og ást þig vafdi, uns allt var horfid fjør?

Herrann lífsins harma reikuar tár,
allra er hann föðurlausra faðir,
og fram úr hörmum leiðir oss, svo glaðir
prísað fáum hann um eylíf ár.

B. Þ.

---

†

Sár söknuður
hjartkærs vinar
velgjörða- og tengda-bróðurs
Herra Consistorial-Assessors og Dómkyrkjuprests
Síra **Gunnlaugs Oddsonar**
af
hans eptirþreyandi gráa vin

Þ. B.

Ætti sér lángra
ita manngi
dvala í dáins bygðum!
Harma því fleiri
sem hérvist drýgist
sárra safnast efni.

Hefðat ellefta
mér ára sjöund
yfir hárán hjarna liðit,
þirmt mundi neggi
þessum fyrir
hvössum harma fleini.

Gat eg þann ástvin,
er geði hollu
blend við mig sem bróður;
lund viður kættist
ljúfan sefa
þess, er eg var annarr;

Fodur — ástþollan
— fadm er lét
bornum mínum bodinn,
mentir ad mættu,
mærar vidur
og sidgædi semjast.

Samhuga hyggjur
hagnýt efni
gotvudu, gloddust fundnum,
brædrum ad benda
á bestar slódir,
á vebrautir ad vísa.

Græddist mér unan,
vidur gódláta,
er lét af leidast, mund,
„lengi mun eg —
láng mér hyggja —
þinna þyrfta njóta."

Hyggja láng mér,
því himna Fadir
dupts lét dáradan muna!
Heim til mín, kvad hann,
hvar heima á,
ond mér kjorna' eg æsti.

Féllst þá hugur
vid farnar vonir
ljóss og lids ad njóta
af ástvin, er,
æ, hvad skamma!
unnt var hér hríd ad eiga.

Hirdti himin
sér háda sálu,
er dupts í gegnum drúnga
hans lét erindi
sér hugkvæmast
og alúd til allri varit.

Blída lagdi birtu
frá bjortu ljósi,
    fagurt var ordtak og ædi;
fordildarlaust
fródhugudum
    lýsti sem einføldum leidir.

Æ! daprast réd
dýrdleg birta,
    húm dró harmsfullt yfir
fagra sól',
er søkk í haf
    eylífda endalausra!

Høfgur datt
yfir høfud mér
    þrár og harma þviti,
þá tengdabródur
og traustum vini
    Gud frá mér gráum svipti!

Þó hef eg átt hann
og eiga mun
    um aldur upp frá þessu;
brádum mun andinn
íturþveginn
    í vinar fadmløg fljúga.

Fullnægt mun þar
í fegins bygdum
    þrám, er huga hvøttu
ad glæda drótta,
ef daprast vildi,
    tendrad ljós til lífs.

Þar mun útausid,
í ástvinar
    barm, frá húmi horfins
dánarheims, tærstu
tilfinníngum,
    er helgir andar hýrgast.

Þar mun inndælli
yrkja fengin
ad med blessun brosa;
og tign eylífri
tilbeidsla
þá af hjørtum goldin.

Frjáls mun þar andi
fljúga um bygdir
mærar muna heima,
láð-búendum
lágrar stordar
sæmri bygdar og sælli.

Rølnd er þá leid,
er leidarvísir
hollur greiddi' og hvatti;
Lamb frá hástóli
líknar-sjónum
rennir ad sálum sinna.

Djásn það er dæmist
duptsins børnum
er Alfødurs einskjær náð;
en í þolgædi
æfd og dádum
ønd mun hnossit hljóta.

Dygd sú, er brauzt
døpur gégnum
ørbyrgdar slitur og anna,
jafn støduglynd,
sér jafnan trú,
heidurs nossid hlýtur.

Þess var þreks audit
þínum anda,
vísinda hollra vinur!
ósjó vannst þú
allan forlaga,
stýrdir í høfn med heill.

Minnist þín hverr
sá marga reyndi
þrúgun þúngra kjøra!
berjist sem þú!
þraungan láti
hag sinn himni falinn!

Ætt mun þá seinni
med undrun sjá
vini dygd of vakta,
er gódum, forsjá
Guds er treysti,
sigur unnu' og sóma.

Þú ert einn sá
Ísafoldar
sona', er sæmd þá hlutu
medur vemála
vørdum helgra
saman sess ad byggja.

Lifdu þá sæll,
ljúfasti vinur!
þacklát þig kynsjørd kvedur;
ættjardar frá
ást sprottinna
í eylifd þér æskir gæda!

Gæda, er geymast
í Guda bygdum
øndum hjartahreinum,
af alúd er fjørvi,
medan audit var,
brædrum til bata vørdu.

Lifdu sæll efra!
vér lifum í dupti,
þinna þyrsta njótum;
himin mun endur-
þá-heimta saman
heilhuga hann er þýddust.

Lifdu sæll á hæd!
Eg hjari' í dupti,
þína fundi þreyi;
vona brádum
af vini kvaddur
Gudi þökk samgjalda.

---

†

Vid fregnina um andlát
Consistorial-Assessors og Dómkyrkjuprests
**Oddsens.**

Laus þú, vinur! lífs frá mædu' og þraut
launum fagnar sælla heims í bygdum,
uppskérd sognud af þeim fogru dygdum,
út er sádir hér á lífsins braut.

Hvarfst þú oss! þad hrygdir vorar jók,
hugar-blída þín oss tídum gladdi,
högvær raust þín oss til dygda kvaddi;
Gud þig lédi, Gud þig frá oss tók!

Gledi-sól þó sorgar hylji nótt,
sæl er von þig aptur ná ad finna,
samveru hvar ei má tídum linna;
þá skal gledjast þér med! sofdu rótt!
Th. S.

---

†

Consistorial-Assessor og Dómkyrkjuprestur
**Gunnlaugur Oddsen** — látinn!

Þá allir harma, allir trega hér
Afbragdid manna, Hann, sem látinn er,
Og hédan fluttur burt í Herrans sveit —
Hve má eg andvarps bindast géds af reit! —

Eg mista vin og bródur, mér hvarf vegarljós!
Módurjørd! slíkra nidja fjølda kjós!
Og óska þess, ad alir margan þann,
Er elskar Gud, og rækir Þig, sem Hann!

P. H.

---

Til hjartkjærrar velgjørda- og tengda-systur

Eckjufrúr

## Þórunnar Bjørnsdóttur Oddsen,

fra heimfúsum eptir-

Preyanda Bródur.

Hvad skal mín harpa stom,
hjartkæra Systir! þér
gala, bjørt, gott á tøm
er gól ei end þín sér?
Heim boli hádan ymsu
ad bodi' hins hærsta byggjum vér.

Enginn því grætur einn;
ótal þar fleiri og hér
sárt nístir sorgar-fleinn,
sárari' enn ætlum vér;
þann, er margt lék í lyndi,
fyrr enn varir þeim brunn' ad ber.

Hvada huggun er þad?
Hver skylda goldin, þá
harmaraust hátt vid kvad,
hreldum, sem raunir þjá?
Skyldt er med grættum gráta,
edlid sjálft gjørir oss þad tjá.

Eg gæti gjarna þér
grátid, ó, Systir! med,
og henni', er hjartkjær mér
harm þinn snjøll túlka réd.
En tár og andvorp eru
máttvana þitt ad gledja géd!

Gledja! hver gétur þad,
nema gædskan alvøld sú,
þraut er þér þessa' ákvad,
þessi lét œfast nú
í mannraun mótlætínga?
sínum þó er um eylífd trú.

Trú? — „En eg tárabed
tvíst norpi køldum á!
fátt, er mitt gledji géd,
géfst mér framar ad sjá!
á børn, uppeldi' er brestur,
hnípin eg dag hvern horfa má!

Sú þykir stund mér styttst,
stúrin í ró er kann
harma þad hef eg misst!
hitt eykur gledi=bann,
er hug minn ádur kjæta
og unadsemd mér auka vann!"

Allt þetta' er edliligt. —
En upplýst finnur sál,
þó sorgin þjái frekt,
þúsund samróma mál
hins hærsta' ad hvergi bregdi
nád eda trygdum nockurt tál.

Innan um andkof heit,
óp sorga mód og rám
forsjón vísdómsfull veit
vid harma lækníng stjám,
þá bøl er þýngst, ad búa
af innra mannsins orku og þrám;

Af því ad minnast á
ótal velgjørda safn,
er Guds oss gjørdi tjá
gædska; blessist hans nafn!
aldrei órunninn verdur
sá straumur, lengi er streymdi jafn.

Velgjörd óveitt sú mér
verða aldregi kann,
er hermír sál mín sér
sæl hana' að gledja vann;
þá eittsinn þakkar verða
ástgjöf, um eylífð eins og fann.

Minni' er eg, Drottinn! minn
miskun þeirri og trú,
er hlotnast hafa' eg finn
hvervetna mér! Þó nú
sjónum þá daufum sjái,
samt velgjörari sami' ert þú.

O! hvað mørg indisstund
af þinni blíðu lént,
mína er mædda lund
má gledja! Náð þín hendt
ó! hvað margri endurnærði
líf mitt ástgjöf, er lét að bendt!

Er þá indisstund sú
ólifuð, þó á flet
harma eg hallist nú? —
O! hversu margrar lét
mig nædis stundar njóta
náð þín fram hermt um hvað eg gét!

Uppsvelgja ætti því
ástgjafa þinna heit
tilfinníng, tendruð í
tállausum hjartans reit,
tilfinníng' ángurs ama,
þann mér í hag þó horfa veit.

Mín skyldi eblast ønd
í trausti, Fadir! þér
einum á. Engin grønd
áttu raskað hjá mér
því fá; en þar til skyldi
reynsla, vissan sem vott þann ber.

Fulluuma þessa' eg þrátt
þóttist. Nú er mér kénnt
ad mikils mér áfátt
mundi. Reynslan þá ment
lærdi, sem lèngi' eg hafdi
ónumid! bøl til bóta er sendt.

Af því nú øll mín von,
allt mitt traust, Fadir! þér
áhvílir einum. Son
eg þinn nú reyni mér
hugsvølun harmþrúnginni,
það eitt er traust og lid sem lér.

Dád mína' og dugnad á
Drottins reynt minna lét
fødurleguſt forsjá; —
sadmbúi trúr mig hét
ást, þocka' og þrifnad vidur
hollrar medhjálpar hljóta met.

En Fadir ockar nú
ákvad mér stærra skeid; —
sadmbúa' er farin sú
fylgd, sem mig leiddi greid!
tveim fullþúng umsjón ádur
hardt mér nú einni' á herdar reid.

Mér finnst sú birdi' óbær:
en besti Fadir sér
allt gløggvar, auga vær
á daufu' enn komum hér; —
„en ef hans máttur minni
um von fram sig øblgan verki' í tér!"

Er sæla' og sómi' ei þá
ad sjást í hendi hans
værkfæri veikt, er má
vidfrægja kyni manns
veitta nád, eylífd alla
hans barna' er verdur heidurs kraus?

En ef ætladi sú
ást, best er þekti mig,
meiri enn módur nú
mér skyldu', er ein um sig
ádur full þúngbær þótti?
nád hans er trygg og nærgætlig.

Þess fremur sæ eg reynt
forsjón hans holla mér,
sem líf mitt sé eg treynt,
ad sjá megi því gjør,
føđurleysingja' ad Fadir
minna og styrkur minn hann er.

Ef veittan ástvin mér
eg reyndi nærgætinn,
enn nærgætnari er
ástvin' himneski minn,
sem leir minn og lund best þekkir;
óhultast því og inndælst finn;

Ad líkjast lund hans hér,
sem, ljúfi Fadir! kvad:
verdi þinn vilji á mér!
um vægd er þjádur bad;
líkt honum líđa' og strída
skal þad mid, sem eg skunda ad.

Eg gjøri' ad allt sem gét;
alvalds Føđurs umsjá
á traust og athvarf set
allt; hún mér stendur hjá,
allt ladar, leidir, blessar,
þó efni séu og orka smá.

Hollari hygg eg þá
hugsvølun engin mér
veizt fái', enn vott þess sjá
ad var, ó Fadir! þér
hugad um mig og minna
hóp, sem munarlaus án þín er.

Og reyna', að þrek og þrótt
  þín mér blessandi' aðstoð
lénti og líknar gnótt
  ljúf þitt aðhyllast boð;
    fús gjöra, fús allt líða
  er lífs míns inn þú ófst í voð.

Hita þá hverja við
  horfi' eg lotu til þín
og hans, sem ljær mér lið,
  leið sjálfur vegna mín;
    finn svölun ferska' af sigri
  máttar hans, veikri er mér á skín.

Og finn mér orku' og dáð
  auka hvert lífsins stig;
þraut aldri þína náð
  þróttgari gjöra mig;
    með framför mínum búa
  anda laun hjá þér eylíflig.

Fullkomnuð flýg eg þar
  faðmbúa', engils, í skaut,
fullæfður er mér var
  undan dánarheims þraut
    numinn frá; hvers samvistum
  aðstoð af sóma' og indi' eg hlaut.

Þá, englar bæði, þökk
  þeirri samgjöldum gönd,
björt er dægur sem dökk,
  dýrst sameinuð við bönd
    leiddi holl, lét samsveitast,
  laus ótal jarðar lífs við grönd.

Og fagna funda til
  flutti við hástól sinn
eptir æfingarbil
  útrunnið; þerrar kinn:
    andir sinn gösga' um aldír
  leiðtoga' um heim í himininn.

---